# SÁLMA-VAL

við

# helgidagalestra í heima-húsum.

Samið hefur

sjera **Grímur** sál. **Grímsson**,
prestur að Barði í Fljótum.

Ásamt með



## nokkrum helgidagabænum,

eptir ýmsa merkisplesta.

---

Kostnaðarmaður **J. Grímsson**.

AKUREYRI.

Í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, af H. Helgasyni

1 8 5 7.

# Til lesendanna.

Vegna þess jeg álít „Sálma-val“ þetta betur valið, en menn almennt velja til lesturs í heimahúsum, og það um leið er þægilegt og gagnlegt fyrir þá sem flytja húslestur, þá rjeðist jeg í að láta prenta það í þeirri von, að jeg þar með gjöri alþýðumönnum þægt verk, og að þeir veiti því góðar viðtökur.

Taflan bendir til No. sem hverjum helgidegi tilheyra og eru það sálma No. en ekki blaðsíðu talan sem tilgreind eru; og ekki er heldur ætlast til að sungin sjeu af þeim tilteknu No. fleiri hvert skipti enn hverjum bezt líkar.

Að því leyti sem jeg hefi bezt vit á og jeg hefi borið það saman við ræður Dr. P. Pjeturs-

sonar, finnst mjer það eiga fullt eins vel við þær, eins og Mág. J. Þorkellssonar postillu.

Bænirnar eru eptir ýmsa merkispresta, yfirlesnar af sjera Svb. Hallgrímssyni, sem ályktaði, að ekki væri vert að breyta þeim í neinu, því þær væru góðar; en kaflinn „Farsæll getur verið, þó fátækur sje", er eptir merkisprestinn sjera Jón sál. Jónsson, sem lengi þjónaði Grundar- og Möðruvalla-söfnuðum, og seinast Möðruvalla-klaustursbrauði.

Jeg verð að biðja góðfúsa lesendur að fyrirgefa og leiðrjetta það sem rángt, eður ábótavant finnast kann í kverinu.

Útgefarinn.

---

# Sálma-val

## við guðsþjónustugjörð í heimahúsum á öllum helgidögum árið um kring.

| | | |
|---|---|---|
| 1. Sunnud. í Aðv. | fyr. | 197, 2, 100, 103. |
| | ept. | 107, 236, 193, 5. v. af 237. |
| 2. —— - — | fyr. | 196, 12, 175, 105. |
| | ept. | 224, 173, 219, 233, 3. v. af 187. |
| 3. —— - — | fyr | 196, 16, 11, 104, 103. |
| | ept. | 126, 133, 113, 104, 135. |
| 4. —— - — | fyr. | 21, 4, 18, 3, 11, 160, 175. |
| | ept. | 126, 193, 8. v. af 174. |
| Á Jólanóttina . | fyr. | 64, 51, 98. |
| | ept. | 55, 66, 5. v. af 57. |
| Á Jóladaginn . | fyr. | 199, 47 60, 56, 98, 59, 58. |
| | ept. | 46, 61, 68, 63. |
| Á Annan Jóladag. | fyr. | 196. 48, 64, 63, 104, 58. |
| | ept. | 68, 103, 2, v. af 115. |

| | | |
|---|---|---|
| Sd. m. J. og N. | fyr. | 196, 48, 64, 63, 104, 58. |
| | ept. | 68, 103, 2. v. af 115. |
| Á Nýársdag . . | fyr. | 253, 31, 252. |
| | ept. | 236, 251, 3. v. af 60. |
| Sd. m. N. og Þr. | fyr. | 8,19,51,174, 125, 106,173. |
| | ept. | 126, 193, 181. |
| 1. Sunnud. e. Þr. | fyr. | 15, 11, 172. |
| | ept. | 34, 120. |
| 2. —— - — | fyr. | 15, 32, 18, 11, 33, 48. |
| | ept. | 107, 309, 166, 3. v. af 187. |
| 3. —— - — | fyr. | 8, 51, 108, 146. |
| | ept. | 145, 147, 143. |
| 4. —— - — | fyr. | 32, 52, 162. |
| | ept. | 107, 154, 5. v. af 158. |
| 5. —— - — | fyr. | 172, 147, 8. |
| | ept. | 130, 150, 151. |
| 6. —— - — | fyr. | 196, 21, 117, 197, 6. og 7. v. af 30. |
| | ept. | 115, 119, 114. |
| 1. Sd. í Níuv. f. | fyr. | 196, 22, 18, 4, 100, 103. |
| | ept. | 107, 122, 134, 160, 18, 3 v. af 187. |

| | | |
|---|---|---|
| 2. Sd. í Níuv. f. | fyr. | 16, 106, 105. |
| | ept. | 107, 134, 135. |
| Sd. í Föstuinng. | fyr. | 196, 18, 3, 122, 103. |
| | ept. | 209, 129, 3. v. af 193. |
| 1. Sd. í Föstu. | fyr. | 7, 51, 186, 189. |
| | ept. | 186, 194, 192, 3. v. af 193. |
| 2. — - — | fyr. | 43, 11, 159, 160. |
| | ept. | 157, 168, 169, 5. v. af 158. |
| 3. — - — | fyr. | 142, 51, 155. |
| | ept. | 186, 194 5. v. af 246. |
| Sunnud. í Miðf. | fyr. | 42, 32, 4, 106, 136, 176. |
| | ept. | 185, 270, 204, 6. v. af 251. |
| 5. Sd. í Föstu, | fyr. | 197, 47, 113, 57. |
| María boðan. | ept. | 55, 54, 5. v. af 61, 314, |
| Á Pálmasunnud. | fyr. | 142, 98, 175. |
| | ept. | 107, 50, 54, 147, 163, 3. v. af 193. |
| Á. Skírdag . . . | fyr. | Eins og Sálmabókin tilvís- |
| | ept. | ar frá 212 til 217. |
| Á Föstud. langa. | fyr. | Eins og Sálmabókin tilvís- |
| | ept. | ar frá 69 til 77. |
| Á Páskadögum. | fyr. | Eins og Sálmabókin tilvís- |
| | ept. | ar frá 81 til 91. |

| | | |
|---|---|---|
| 1. Sd. e. Páska. | fyr. | 196, 16, 3, 88. |
| | ept. | 85, 139, 142, 119, 140. |
| 2. — - — | fyr. | 200, 18, 19, 8, 11, 187. |
| | ept. | 107, 147, 134, 5. v, af 158. |
| 3. — - — | fyr. | 197, 30, 39, 37, 29, 45, 154. |
| | ept. | 107, 159, 155, 194, 149. |
| Á Bænádaginn . | fyr. | 7, 146, 138, 148, 106, 203. |
| | ept. | 144, 141, 143, 145, 237. |
| 4. Sd. e. Páska. | fyr. | 197, 19, 27, 29, 99. 103. |
| | ept. | 126, 109, 5. v. af 120. |
| 5. — - — | fyr. | 15, 29, 201. |
| | ept. | 107, 205, 5. v. af 237. |
| Á Uppstigningard. | fyr. | 197, 92, 21, 99, 101, 94. |
| | ept. | 5. v. af 56, 93, 4. v. af 101, 2. v. af 115. |
| 6. Sd. e. Páska. | fyr. | 3, 97, 99. |
| | ept. | 186, 187, 5. v. af 257. |
| Á Hvítasunnud. | fyr. | 198, 2, 109, 99, 106, 104. 108. |
| | ept. | 107, 103, 2. v. af 105. |
| Á annan Hvítasd. | fyr. | 197, 2, 3, 109, 11, 97, 108. |
| | ept. | 107, 104, 101, 5. v. af 103. |
| Á Trínitatis . . | fyr. | 196, 13, 1, 29, 129. |
| | ept. | 107, 120, 135, 97, 110. |

| | | |
|---|---|---|
| 1. Sd. e. Trínit. | fyr. | 197, 19, 29, 172. |
| | ept. | 115, 164, 155, 8. v. af 174. |
| 2. — - — | fyr. | 199, 16, 11, 194. |
| | ept. | 186, 156, 157. |
| 3. — - — | fyr. | 16, 11, 3, 167. |
| | ept. | 145, 141, 147, 149. |
| 4. — - — | fyr. | 8, 29, 125, 9, 134. |
| | ept. | 180, 181, 182, 6. v. af 24. |
| 5. — - — | fyr. | 200, 4, 42, 29, 158, 176. |
| | ept. | 157, 153, 6. v. af 167, 4. v. af 162. |
| 6. — - — | fyr. | 199, 18, 19, 29, 179, 134. |
| | ept. | 107, 182, 183. |
| 7. — - — | fyr. | 200, 15, 39, 29, 161. |
| | ept. | 157, 167, 5. v. af 246. |
| 8. — - — | fyr. | 200, 8, 11, 125. |
| | ept. | 126, 122, 121, 6. v. af 240. |
| 9. — - — | fyr. | 19, 11, 121. |
| | ept. | 191, 204, 6. v. af 255. |
| 10. — - — | fyr. | 19, 136. |
| | ept. | 204. |
| 11. — - — | fyr. | 199, 8, 106, 122, 173. |
| | ept. | 140, 139, 143. |

| | | |
|---|---|---|
| 12. Sd. e, Trínit. | fyr. | 18, 15, 11, 108, 103. |
| | ept. | 126, 120, 127, 194, 195. |
| 13. — - — | fyr. | 200, 18, 3, 122. |
| | ept. | 123, 134, 191, 184. |
| 14. — - — | fyr. | 134, 105. |
| | ept. | 155, 151. |
| 15. — - — | fyr. | 32, 11, 41. |
| | ept. | 107, 161, 177. |
| 16. — - — | fyr. | 153, 159 |
| | ept. | 166, 170. |
| 17. — - — | fyr. | 196, 18, 51, 11, 121, 120. |
| | ept. | 186, 51, 54. |
| 18. — - — | fyr. | 196, 18, 51, 11, 121, 120. |
| | ept. | 186, 51, 54. |
| 19. — - — | fyr. | 7, 108, 139. |
| | ept. | 107, 146, 147, 163, 151. |
| 20. — - — | fyr. | 199, 19, 98, 122. |
| | ept. | 51, 125, 4. v. af 131. |
| 21. — - — | fyr. | 196, 10, 11, 103. |
| | ept. | 107, 166. 151. |
| 22. — - — | fyr. | 18, 3, 106, 182, 139. |
| | ept. | 183, 107, 179, 2. v. af 184. |

| | | |
|---|---|---|
| 23. Sd. e. Trínit. | fyr. | 200, 9, 121. |
| | ep . | 123, 120, 6. v. af 240. |
| 24. — - — | fyr. | 196, 42, 11, 155. |
| | ept. | 157, 163, 195. |
| Á Allraheil. m. | fyr. | 42,11,154,161, 3.v. af 173. |
| | ept. | 77, 166. |
| 25. Sd. e. Trínit. | fyr. | 199, 17, 11, 3. |
| | ept. | 147, 149. |
| 26. — - — | fyr. | 163, 50, 52. |
| | ept. | 145, 150, 143. |
| 27. — - — | fyr. | 173, 174, 3. |
| | ept. | 147, 3. v. af 138. |

---

# „Farsæll getur verið þó fátækur sje“,

eptir sjera **Jón** sál. **Jónsson.**

---

Til að öðlast sanna farsæld, útkrefst hvorki auður nje metorð heims þessa, hvað þá? góð samvizka þvegin með Jesú blóði, hver getur öðlast hana? sá sem með sannri iðran, og lifandi trú

á Jesúm Kristum kemst í náð hjá guði, lætur síðan af öllu vísvitandi illu, en lærir og kappkostar að gjöra svo mikið gott sem honum mögulegt er, slíkur einn er farsæll, hversu fátækur og vesæll sem hann er að líkamans kjörum; já, hann er ánægðari í sinni fátækt, enn stórríkur einn, sem ekki hefur góða samvizku, mitt í allri sinni auðlegð; en þennan dýrmæta fjesjóð — góða samvizku — kappkostar hann þá að varðveita eins og sjáaldur auga síns, því hann veit að tapi hann henni, tapar hann undir eins guðs náð, og á þess von að hrapa úr stundlegri fátækt í eilíft böl og volæði, nema hann geti öðlast hana aptur að nýju, áður enn hann kemur fyrir guðs dóm.

Hvernig fer hann þá að varðveita fjesjóð þennan?

Svar: 1. Eptir það hann eittsinn með sannri iðrun og rjettlætandi trú á guðs son, hefur öðlast hann, varðveitir hann fjesjóðinn á líkan hátt sem hann brúkaði til að öðlast hann í fyrstu.

2. Dagleg iðran fyrir syndirnar, og umfaðman Jesú rjettlætis, er sú aðferð sem hjer til brúka skal, og engin önnur er dugleg.

3. Nú er guðsorða yfirvegun og andaktug bæn, meðöl þau fyrir hverra brúkun að þetta stóra verk framið verður, þar fyrir iðkar hann þau með allri kostgæfni; eptir guðs orði hungrar hann fyrir sálu sína, sem eptir fæðunni fyrir líkamann. Bænin er hans lífslisting, því fyrir hana umgengst hann í anda guð og sinn frelsara, hver umgengni honum er það stærsta yndi.

4. Jesú kvöldmáltíð heldur hann fyrir eina stórhátíð sinnar sálar, þess vegna hlakkar hann til hennar, meir en til alls annars sælgætis, og býr sig til hennar með allra beztu viðhöfn síns hjarta sem hann getur. Yfir höfuð hefur hann fyrir sína lífsreglu þessi Jesú orð: „Vakið og biðjið, svo þjer fallið ekki í freistni“.

5. Hann kappkostar að þekkja þær freistingar, sem hann helzt í netjast, og setja sterkastar skorður fyrir þær sem hann finnur sína náttúru helzt til hnegjast, t. a. m. *a.*, er það óþolinmæði í bágindum hans, móti henni setur hann spegil Jesú þolinmæði, og lætur hana vera sitt augnamið.

*b.* Er það lokkan til að bæta böl sitt á ó-

leyfilegan hátt, hjer lítur hann og svo til Jesú, sem ekki — þó hann gæti — braut af sjer það ok, sem hans óvinir á hann lögðu, og skyldi hann þá brjóta af sjer þetta ok, sem guð á leggur?

*c.* Er það öfund til annara, sem betur líður, enn honum sjálfum, hana dempar hann með íhugun síns óverðugleika fyrir guði, sem gjörir hann maklegan jafnvel þyngri kjara enn hann hefur, ef guð vill í dóm við hann ganga.

*d.* Er það óaðgæzla í orðum og atvikum, hjer á móti setur hann vareygðina yfir sjálfum sjer, og þenkir til Pjeturs orða: „hver hann vill lifa og sjá góða daga, stilli sína túngu og tali ekki flærð með sínum munni“.

*e.* Er það tilhneging til heimslegs sinnis og holdlegs munaðar, þar á móti er Jesú krossfestingar íhugan, honum kröptugasta meðal, þar hún skuldbindur hann, vilji hann sjer til endurlausnar not af henni hafa, til að krossfesta sitt hold með þess girndum og tilhnegingum.

6. Með þessu sinnislagi leitast hann við að ganga á fram sína lífstíð í heimi þessum, og

auðsýnir þær útvortis kristilegu dyggðir eptir sínu standi við sjerhvert tækifæri.

Hann stjórnar sínu húsi með guðrækni, ef hann er húsbóndi.

Hann er trúr og dyggur í öllum sínum verkum, ef hann er þjenari.

Hann er umhyggjusamur fyrir sinna barna velferð, ef hann er faðir.

Hann er trúfastur og elskuríkur við sinn ektamaka, ef hann er giptur.

Í einu orði:

Hann auðsýnir í sinni trú dyggð, það er: hann lætur trúna á Jesúm, upphvetja sig til dyggðanna, en dyggðina helgast fyrir trúna, og í þessari trú og dyggð stendur hann stöðugur allt til æfiloka og uppsker svo dyggðarinnar og trúarinnar verðlaun í eilífu lífi.

# Bæn

## á undan húslestri 1. sunnudag í Aðventu.

Ó, þú eilífi dýrðarinnar konungur, drottinn guð allsherjar! hvers hásæti að himininn er, en jörðin

skör þinna fóta; fram fyrir þitt guðdómlega tignar veldi, dirfumst vjer að koma á nálægri náðar stundu, vjer syndararnir — segi jeg — sem daglega inndrekkum ranglætið eins og þurr jörð tekur til sín vatnið; en hvernig sem þessu er varið fyrir oss, drottinn minn! þá komum vjer samt í þeirri von framm fyrir þig, að þú munir enn þá einusinni, leyfa oss að tala við þig í vorum auðmjúkum bænum, og að þú munir þá líka svara oss aptur í náð þinni og miskunsemi. Vjer krjúpum þá fram á vorar ásjónur fyrir þinni guðdómlegu hátign; vjer beygjum vor knje fyrir þjer, þú guð og faðir drottins vors Jesú Kristí! og segjum þjer með hjarta og munni lof og dýrð, heiður og þakkargjörð, fyrir það þú hefur, náðugi guð! látið oss enn nú aflifa eitt kirkjuár, og uppbyrja annað nýtt, hvar með þú hefur sparað oss undir þinni óþreyttri þolinmæði, til iðrunar og yfirbótar. Þú hefur kallað oss fyrir prjedikun þinna heilögu orða og kunnan gjört oss lífsins veg. En æ oss, blindar manneskjur! vjer höfum snúið við þjer bakinu, og ekki andlitinu; vjer höfum — því miður — daufheyrst optsinnis við

þinni náðarkallan; vjer höfum að sönnu lofað bót og betrun, en — guð náði — þar hefur svo lítil raun á orðið allt til nálægrar stundar, svo ef þú vildir nú ganga í skarpan rjett og reikningsskap við oss þræla þína, þá værum vjer allir saman dauðans menn fyrir þjer; en, drottinn! vertu oss öllum náðugur og líknsamur í Jesú nafni, og fyrir hans forþjenustu sakir virstu að fyrirgefa oss allt vort tómlæti og gáleysi, allan vorn andlegan dofinskap, já, allar vorar syndir, smærri sem stærri, vitanlegar sem óvitanlegar, sem vjer höfum nú aðhafst á umliðnu kirkjuári og öllum vorum umliðnu æfistundum, til hugrenninga, orða og verka. Niðursöktu þeim öllum í það blóðrauða haf Jesú Kristí forþjenustu, svo þeirra verði ekki minnst að eilífu. Og nú, herra guð! þetta er vor fyrsta guðsþjónustugjörð á þessu nýja kirkjuári, svo gef oss nú þína náð; gef oss lukku og blessan, að hún megi verða þjer þægileg, en oss þínum börnum sáluhjálpleg. Áhrær vor hjörtu og eyru með náð þíns heilaga anda, að vjer svo vel í dag sem endrarnær hjer eptir, mættum heyra þitt heilaga orð, sem er líf og andi, geyma

það í góðu og siðsömu hjarta, og færa þar af ávöxt í stöðuglyndi. Og þú, vor góði endurlausnari herra Jesú Kristi, sem á þessum degi hjelzt þína konunglega innreið til borgarinnar Jerúsalem, virstu nú að koma til vor þinna veiku barna, með allri þinni náð og blessan; nær vjer höfum þig þá höfum vjer allt, fari þá annað sem það fara vill; kom nú með þessum tímans umskiptum í fullum krapti þíns orðs og evangelíí til þinnar kristilegu kirkju; kom sjerílagi til þessa þíns litla safnaðar með guðdómlegri upplýsing og náðarverkunum; lát engan af oss, þessum þínum sauðum, verða óvininum að bráð, heldur leið oss alla til þess eilífa sauðahússins á himnum; biðjum hver sem biðja kann, biðjið og ákallið guð ásamt mjer, að hann vilji nú gefa sínu orði þann framgang vor á meðal, að vjer fyrir það megum umvendast, leiðrjettast, betrast og að lyktum leiðast til eilífs lífs og sáluhjálpar. Biðjum allir í einingu andans og trúarinnar, segjandi: Abba, elskulegi faðir! faðir vor.

# Bæn

## á undan húslestri á 1. sunnud. eptir þrettánda.

Drottinn guð, himneski faðir! sem af þinni náð og miskunsemi hefur gefið oss bæði börn og þjenara, vjer biðjum þig, gef oss það hjarta, að vjer göngum fyrir þeim með góðum eptirdæmum, svo að vjer hvorki hneyxlum þau með orðum eða verkum, heldur höldum þeim kostgæfilega til að sækja þitt hús, og heyra þitt sáluhjálplega orð; gef þeim þinn anda og náð, svo sæði þinna heilögu orða geti fært hjá þeim góðan ávöxt. Gef þeim að framganga þjer til lofs og dýrðar, og náunganum til gagns og góða, samt betrunar eflingar í kristilegu líferni, en engum til ásteitingar að vera. Bænheyr oss um allt þetta fyrir Jesúm Kristum þinn elskulegan son, sem með þjer lifir og ríkir í einingu heilags anda, einn sannur guð, frá eilífð til eilífðar. Amen. Faðir vor, o. s. frv.

# Bæn

## á undan húslestri.

Ó þú stóri og alsvaldandi himins og jarðar kon-

ungur, drottinn guð allsherjar! þú faðir drottins vors Jesú Kristi, og faðir yfir allt það sem börn kallast bæði á himni og jörðu! Á þessari náðarstundu komum vjer fram fyrir þína guðdómlegu hátign, til að offra þjer þakklæti vors munns, þjer, sem ekki aflætur að gjöra oss til góða, hversu óverðugir sem vjer erum, því þín gæzka nær svo langt sem himininn er. Svo sem miskunsamur faðir breytir þú við oss þín óhlýðin börn. Þín augu vaka yfir oss, og þú stjórnar öllu oss til ens sanna bezta; hvert heldur þú lætur oss meðlæti eður mótlæti tilfalla, svo er þinn tilgangur ætíð hinn bezti. Þar hann leiðir oss á hinn rjetta sáluhjálpar veg, og gjörir oss hluttakandi í þíns eingetins sonar afrekuðu sáluhjálp. Ó, að vjer aldrei misbrúkum þinnar gæzku, þolinmæði og langlundargeðs ríkdóm, heldur látum hann leiða oss til yfirbótar. Ó, að þínir stóru velgjörningar mættu uppvekja hjá oss innilegt þakklæti, og hræra oss til að ganga fyrir þínu augliti á sakleysisins og rjettlætisins vegi. Kenn oss, heilagi guð! að yfirvega þau tilfelli, sem oss mæta í þessu lífi, að vjer þar af mættum uppörfast til að hlýða þjer.

í mótlætinu uppörfast til að offra þjer skyldugu þakklæti, sem í mótlætinu til að biðja þig um hjálp, já, í öllum aðþrengjandi nauðsynjum með bæninni að leita þinnar grunnlausu miskunar. Amen.

# Bæn
## fyrir lestur á helgidögum.

Ó þú eilífi og lifandi guð! hvernig kunnum vjer nógsamlega að þakka þjer, að þú hefur svo náðarsamlega opinberað oss þinn heilaga vilja í þínu orði, til þess vjer mættum læra þar af hvernig vjer skulum geta orðið trúaðir, hreinskilnir og sáluhólpnir. Svo gef oss nú þinn heilaga anda, að hann opni vor augu til að sjá það aðdáanlega í þínu lögmáli; að hann fyrir þitt orð verki og auki trúna í vorum hjörtum, og volduglega hneygi og beygi vorn vilja, að vjer gleðjum oss yfir þínum vitnisburði, og af hjarta treystum þjer og höldum þín orð. Amen. Faðir vor, o. s. frv.

Lofið drottinn allar þjóðir, vegsami og prísi hann allur lýður, því hans nafn er heilagt. Amen.

# Bæn
## fyrir lestur á Skírdag.

Til þín, drottinn vor og frelsari, til þín, sem sýndir oss föðurinn í sjálfum þjer, til þín, sem ert guð á jörðunni auglýstur, lyptum vjer huga vorum, og finnum sælu vora í umgengninni við þig. Vjer minnumst þín á guðræknis stundunum, á alvöru- og hryggðar stundum lífsins, því vjer vitum og trúum að nafn þitt er það eina undir himninum, sem oss er gefið til blessunar og hjálpræðis. Vjer minnumst þín með samnautn brauðsins og vínsins í þeirri máltíðinni, er þú bauðst öllum játendum þínum að halda í minningu þína. Já, vjer viljum minnast dauða þíns, og boða hann þangað til þú kemur. Hjálpaðu oss að geyma minning þína í hjarta voru, að missa ekki sjónar á þjer, hvað annað sem ber fyr oss. Hjálpaðu oss einnig á þessari stundunni að vera þjer nálægum í andanum, þegar þú kvaddir vini þína í seinasta sinni fyrir dauða þinn, og gjörðir ást þína til mannkynsins sem minnilegasta fyrir þeim, þegar stundin var komin, að faðirinn auglýsti þig, svo að þú auglýstir einnig föðurinn. Láttu end-

urminningu þína helgast í hjörtum vorum og helga hjörtu vor, svo vjer í orði og verki vottum oss þína lærisveina og játendur, svo vjer aldrei gleymum þjer sem keyptir oss dýru verði, aldrei afneitum þjer, sem sjálfur gjörðir hina góðu játningu sannleikans, og hefur kallað oss til frelsis sannleika þíns. Láttu endurminningarmáltíð þína hvenær sem að kemur, helga lífið og blessa oss þess endalok. Láttu þína síðustu bæn fyrir þínum lærisveinum einnig hrína á oss, sem trúum á þig fyrir þeirra orð, svo þegar vjer fáum ekki lengur að samansafnast til endurminningar þinnar í þínu húsi, sem með höndum er gjört, að vjer þá mættum komast þangað, sem þú ert, og sjá þá dýrð sem faðirinn gaf þjer. Blessaðu oss nálæga guðræknis stund. Blessaðu oss í umgengninni, og sameiningunni við þig, og lofaðu oss eins og þeim lærisveininum sem þú elskaðir, að halla oss í trúnni upp að þínu brjósti oss til hvíldar og huggunar, þá er oss nóg, því þegar þú ert vinur vor, og ert með oss þá megnar ekkert móti oss, ekkert fær slitið oss úr þinni hendi. Amen. Faðir vor, o. s. frv.

## Bæn
### eptir lestur á helgidögum.

Ó, þú trúfasti himneski faðir! lof, dýrð, heiður og þakkargjörð sje þjer sögð og samin af innstu auðmýkt, að þú með hinu allralistilegasta fóðri þíns guðdómlega orðs hefur virðst að hressa, næra og endurlífga vorar sálir; svo lát nú allt það vjer lásum eða heyrðum lesið í vor hjörtu skrifað með guðdómlegum fíngri þíns heilaga anda, og af hönum innsiglað vera, svo það sama ei missum þaðan, og svo þess sáluhjálplegu nota ei á mis förum, heldur að vjer fáum varðveitt það í góðu og siðsömu hjarta, og færum þar af ávögst í þolinmæði, og oss þar af fyrir þínu heilaga augliti um tíma og eilífð gleðjum. Amen. Faðir vor, o. s. frv.

## Bæn
### á eptir húslestri.

Fyrir þínu guðdómlega augliti, góði guð! krjúpum vjer niður á fótskör þína í dag, og segjum þjer eilíft lof og innilegasta þakklæti fyrir þína marg-

reyndu óviðjafnanlegu ást og mildi, já, ótölulegu velgjörninga, er þú hefur oss aumum og óverðugum auðsýnt allt til nálægs tíma, og sjerílagi fyrir það, þú hefur unnt oss að mega frambera fyrir þig vorar bænir og hjartans andvarpanir, og heyra þig oss aptur andsvarandi í náð og miskun. Þú hefur haldið oss við lífið svo veikar vatnsbólur sem vjer erum og þannig sparað oss einn dag eptir annan til yðrunar og yfirbótar, að vjer sjeum ei varbúnir, heldur viðbúnir, hvenær sem þjer þóknast að kalla oss fyrir dauðann inn fyrir þinn dómstól. Æ, drottinn! hversu skulum vjer endurgjalda þjer fyrir slíkar velgjörðir? lofi þig hjer fyrir andi vor, og lofsýngi þínu nafni, æ og eilíflega.

Með ángurfullu hjarta, já, með tárum megum vjer það viðurkenna, að vjer höfum verið næsta kaldir og dofnir í því að þekkja og þakka þínar velgjörðir; já, rjett tilfinningarlausir í því að þekkja og þakka þínar miskunsemdir, og ekki látið þær laða oss til að að elska þig, af yðrandi og trúuðu hjarta. Æ, vor góði faðir! þessi breytni vor, þetta kaldsinni vort og dofinskapur

ángrar oss, og þar fyrir höfum vjer varpað oss á fótskör þína til að biðja þig, brunnur og uppspretta allrar gæzku og miskunsemdar, að tilreikna oss ekki vorar ávirðingar og óþakklæti, heldur að þú viljir sökum þíns sonar hlýðni, sökum hans friðþægingar, og fyrir hans blóð og dýrstan deyð, fyrirgefa oss vora óhlýðni og þvermóðsku, vort hirðuleysi og dofinskap í því að þekkja og þakka þínar stóru velgjörðir. Mildasti faðir! lát nú þíns sonar friðhrópandi blóð niðurþagga himinhróp vorra ránglætinga, en birg aldrei þín eyru fyrir bænahrópi voru, heldur virztu í náð vorar nauðsynjar að álíta, og send oss þína blessun af himnum ofan bæði til sálar og líkama, þá viljum vjer þakka þjer og lofsýngja þínu heilaga nafni að eilífu. Ó, þú vor sanni náðarstóll og fyrirbónarmaður hjá þínum föður, gakktu nú fram fyrir hans hástól með reykelsi þinnar kennimannlegu fyrirbónar, þíns föðurs — segjum vjer — hvern vjer höfum svo þráfalt styggt og móðgað; bið fyrir oss að hann straffi oss ekki eptir vorum verðugleika, heldur hafi þolinmæði við oss ef ske kynni að vjer leiðrjettumst,

ef skje kynni að vjer snjerumst til hans og gæfum honum dýrðina. Æ, drottinn! vjer vitum ekki hvers vjer eigum að biðja, send þú því þinn góða anda í vor hjörtu, sem þau endurnæri, upplýsi, vökvi og vermi með il sinnar náðar, svo vor guðræknis athöfn í dag sem endrarnær, mætti verða þjer þægileg, en oss öllum sáluhjálpleg. Gef oss vilja, list og krapt til að þjóna vorum guði með hreinferðugu hjarta, og rjettum anda í heilögu bæna ákalli, og sonarlegu trúnaðartrausti. Gef oss krapt og vilja til að deyða allar holdlegar girndir, sem mótstríða guðs vilja og velferð vorra sálna. Gef oss krapt og vilja til að afneita fýsn augnanna og drambsömu líferni, en lifa sparsamlega og rjettferðuglega og guðrækilega í þessum hættu heimi, og vakta upp á sælunnar von og dýrðarinnar auglýsing; þá munum vjer fyrir þína leiðsögn öðlast það eilífa lífið, sem sjálfur Jesús vor friðþægjari, vor bróðir og árnaðarmaður hefur oss áunnið með sínum dauða og friðþægingu; heyr oss hjer um, þú góði verðugi heilagi andi. Amen. Faðir vor, o. s. frv.

# Bæn

## eptir húslestur á fyrsta sunnudag í Sumri.

Ó þú heilaga guðdómsins þrenning, faðir, sonur og heilagur andi! vjer þökkum þjer af innsta hjartans grunni fyrir þitt heilaga orð og þau háleitu sakramenti, þau náðarinnar meðöl, á hverjum þú fóstrar og nærir vorar sálir til eilífs lífs. Ó, gef að þau mætti hjá oss verða kröptug og ávaxtarsöm, þjer til dýrðar, en oss til eilífrar sálarvelferðar, en varðveit oss fyrir háskasemd vors hjarta og dauðlegum syndum og eilífum dauða. Blessa þú og viðhalt þinni almennilegu kristilegu kirkju, ávaxta og margfalda með henni gáfur þinnar náðar. Varðveittu þinn smurða, vorn allranáðugasta arfa herra, konunginn og hið konunglega hús, einnig ríkisráðið sem og allar kristindómsins höfuðstjettir: kennidóms- valdstjórnar- og hússtjórnar-stjettina. Lát þína kennimenn vera ískrýdda hjálpræðinu. Gjör vora veraldlegu stjettar yfirdrottnara alla að rjettlætisins þjenurum, og auk þá í öllum kristilegum dyggðum. Blessa þú hússtjórnarinnar björg og næringu og allt ærlegt erfiði. Lát ektahjónin elskast í inn-

byrðis falslausum kærleika, gef þeim að ástunda að uppfóstra börn sín í sönnum guðs ótta, og halda þjónum sínum til kristilegrar auðsveipni og hlýðni, svo að bæði börn og þjónar mættu með trú og hollustu heiðra foreldra og yfirboðara. Varðveit og fullkomna hið góða sem þú hefur með sjerhverju þínu barni uppbyrjað. Styrk þú allar guðhræddar og þúngaðar kvinnur. Send hjálp öllum ekkjum og munaðarlausum börnum, og yfir höfuð öllum þeim, sem á einhvern hátt eru þjáðir undir byrði mótlætinganna. Allir kristnir krossberendur sjeu þjer til nákvæmustu aðhjúkrunar befalaðir, gef að sálum þeirra líði ætíð vel. Þín óþreytandi miskun taki alla deyjandi til náðar. Fyrirgef öllum vorum mótgjörðarmönnum og gef þeim að snúast frá sínum vondum vegi. Miskunsami náðugi guð og faðir! varðveit oss frá hallæri, stríði, stórsóttum og hastarlegum dauða. Blessa oss af himni, jörðu, sjónum og skepnunum. Gef oss hita og dögg, kulda og þurrviðri og logn, hvert á sínum hentugasta tíma. Í einu orði: gef oss allt það sem oss er haganlegt til vorrar tímanlegu og eilífu nytsemdar, en afvend

frá oss öllu því, sem velferð vorri er til hindrunar, en þínum vilja gagnstæðilegt. Um framt allt fyrirgef oss vorar syndir og yfirtroðslur, stórar og smáar, fyrir Jesúm Krist, og viðhalt oss í hreinni iðran og rjettri trú, það eptir er vorra fallvöltu lífstunda, svo vjer loksins fullkomlega fríaðir frá öllu illu mættum verða innleiddir til þeirrar eilífu vistarveru, hvar að er gnógt fagnaðarins til þinnar hægri handar, hvar þínir útvöldu munu sýngja þjer, þú heilaga guðdómsins þrenning, faðir, sonur og heilagur andi! eitt eilíft Hósíanna og Halelúja. Amen. Faðir vor, o. s. frv.

# Bæn

## eptir húslestur á seinasta sunnudag í Sumri.

Almáttugi guð og gæzkuríki faðir! Óendanlegar þakkir sjeu þjer fyrir það góða sem vjer höfum meðtekið af þinni miskunarríku hendi. Óendanlegar þakkir sjeu þjer fyrir þetta nú bráðum afliðna sumar. Ó! hversu dásamlega hefur þú við oss breytt á þessu sumri. Hversu hefur þú ei við oss breytt sem faðir; þú hefur auðgað oss

af landi og sjó; þú hefur látið þína náðar sól yfir oss skýna, en vjer höfum þar á mót opt og gálauslega misbrúkað þínar gáfur, gæzkuríki guð! Ó, hversu opt höfum vjer þánkalaust og þakkarlítið — því miður — meðtekið þínar gáfur. Fyrirgef oss vorn óguðlegleika, vjer viljum, góði guð! framvegis vanda líferni vort. Gef oss góðan og hagstæðan vetur. Gef oss ánægt hjarta og stöðugan vilja til að bera mótlætið, þótt þín miskun láti oss það að höndum bera. Undirbú þú hjörtu þeirra, sem þjer þóknast að burtkalla fyrir tímanlegan dauða á þessum snart í hönd farandi vetri, og gjör þá hæfilega að innleiðast til þinnar dýrðar á himnum. Enn fremur biðjum vjer þig, himneski faðir! lát þitt heilaga orð hreint og klárt meðal vor prjedikast. — Hjálp oss ætíð að vera viðbúnum. Enginn af oss veit hverjum af oss hjer nærstöddum muni auðnast það að fagna næsta sumri, og hver veit nema einhver af oss skilji við þetta líf áður enn fá augnablik eru liðin. Miskunsami góði guð! hjálp oss og styrk oss ætíð viðbúna vera dauða vorum. Þú einn veizt hvenær hann að höndum kemur,

gef oss því að þenkja á þá tíð nær vjer skulum hjer við skilja. Vjer felum oss með öllum vorum vandamönnum og öllum efnum vorum í þína föðurvarðveizlu á komandi vetri. Vertu, ó guð! vor allra guð og faðir í Jesú nafni. Amen. Faðir vor, o. s. frv.

## Bæn
### eptir lestur á sunnudögum.

Lof og prís og þakkargjörð sje þjer, mildiríki guð og faðir! að þú ljezt oss, sem ráfuðum í vanþekkingar- og villu myrkrum, upprenna fagurt ljós þinna sannleiks orða, kenndir oss að þekkja veginn til eilífrar farsældar, nefnilega: þig einan að vera sannan guð, og Jesúm Krist af þjer útsendan, til upplýsingar, betrunar og frelsis þínum mannskepnum; kenndir oss að þekkja þitt vísdóms ráð oss til leiðrjettingar, þínar ályktanir um oss, vorar skyldur við þig, oss sjálfa og vora meðbræður; kenndir oss að þekkja vora ákvörðun til ævarandi gleði og ánægju, ef vjer að eins hlýðnumst þínum föðurlega vilja, og kappkostum í öllu voru líferni að láta í ljósi ávöxtu verðuga

þinni þekkingu og dýrkun, og trúlega fylgjum vors meistara Jesú lærdómi og dygða dæmum. Ó, að vjer jafnan ljetum oss hugfast, að laga allt vort líf eptir þínu orði og vilja, daglega taka framförum í vísdómi og dygð, í stuttu máli: verða þjer í fullkomlegleika æ líkari, þóknanlegri og verðugri til manna tignarlega nafns og fyrirheitnu fullsælu með sjálfum þjer. Ó, að síst þurfi rætast á oss: að Jesú lærdóms ljós hafi oss skinið, en vjer þó framar elskað vanþekkingar og andvaraleysisins myrkur enn þetta skæra ljós, hvers vegna Jesú af oss vanvirtu orð á síðan skulu dæma oss á efsta degi, heldur að þessi lífsins orð mættu verða þinn kraptur til vorrar sáluhjálpar. Ó guð! þú þekkir það marga, er oss kann að tæla og afvega leiða, vorn vanmátt og vorn breiskleika, þín náð vorkenni vorum vanmætti, og þinn kraptur sje í vorum breiskleika máttugur, Amen!

---

# Hátíða- og helgidaga-bænir,

samdar af
sjera **Einari Thorlacius,**
presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

---

## Bæn á fyrsta sunnudag í aðventu.

Drottinn minn og Guð minn! þú sem hefur kennt oss í orði þínu að kalla þig þannig, vjer byrjum nú nýtt kirkjuár í þínu nafni; ó, láttu það verða oss blessað náðarár frá Drottni! láttu það búa oss undir að fagna sem ber komu þinni til vor, svo vjer ekki þurfum að skelfast og kvíða komu þinni til dómsins; láttu oss fagna yfir því, að þú snýr að nýju ljósi þíns auglitis til vor í þínu lífsins orði; lát oss gleðjast við það, að þú, vor rjettlætis sól, vilt halda áfram að ljóma inn í sálir vorar og láta Guðs birtuna skína kringum oss í skammdegis húmi þessa heims, svo það verði vel vegljóst á veginum, er vjer eigum að feta eptir þjer til þíns föðurs og vors föðurs á himnum. Vjer heyrum svo margar annarlegar og tælandi raddir í heiminum; æ! láttu þá þína blíðu hirðisrödd láta svo fagurt í eyrum vorum, að vjer elskum hana og

aðhyllumst eins og þeir, sem eptir langan útlegðar hrakning fá að koma heim aptur í sitt föðurland, og heyra þar sitt lengi eptirþreyða og yndislega móðurmál — það lífsæta mál, sem faðir vor á himnum bauð þjer að tala og kunngjöra oss börnum sínum (Jóh. 8, 43. 12, 49, 50.); — með það komst þú ofan úr dýrðinni, drottinn og lærimeistari vor! það eptirskildir þú oss í orði þínu fyrir ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta; æ! láttu það verða oss orð eilífs lífs, kröptugt fyrir trúna oss öllum til sáluhjálpar; láttu oss þekkja í því rödd vors himneska ástvinar; láttu oss hjartanlega gleðjast við það, að þessi blessaða rödd hefur aptur samansafnað oss á þessu nýja kirkjuári, að þú lætur það byrja nýja umferð, nýjan náðarhring, og ítreka fyrir oss að nýju það, sem til vors friðar heyrir. Lát þú oss gleðjast yfir því, að þitt náðar- og sannleiks-orð er æ hið sama, þó allt annað breytist; að þú, Drottinn vor! ert enn með oss, eptir loforði þínu; já, að þú, herra Jesú Kristi! ert hinn sami í gær og í dag og eilíflega! þetta sje vor gleði, er enginn fær af oss tekið á þessu nýbyrjaða kirkjuári; þess vegna byrjum vjer

